# REYKDŒLA SAGA

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR

BENEDIKT SVEINSSON



REYKJAVIK

Kostnaðarmaður Sigurður Kristjánsson

1923

# FORMÁLI

*Saga Vémundar og Vígaskútu hefir verið gefin út þrysvar fyrr en nú: Fyrst var hún prentuð í Khöfn 1830 af konunglega Fornfræðafélaginu, í 2. bindi af Íslendinga sögum. Sáu þeir um útgáfuna Þorgeir Guðmundsson og Þorsteinn Helgason. Vóru þar lögð til grundvallar skinnbókarbrot þau, sem til eru og síðar verðr getið, en að öðru leyti mest farið eftir pappírshandriti Nr. 161 fol. í safni Árna Magnússonar. Handrit þetta hefir ritað síra Jón Erlendsson í Villingaholti, nafnkunnr og merkilegr fornrita-skrifari, er mörgu hefir frá glötun forðað, meðal annars Íslendingabók Ara prests Þorgilssonar og þar með unnið íslenzkum bókmentum ómetanlegt gagn. Þetta handrit sögunnar er þó víða rangt, en því tóku útgefendr það fram yfir önnur, að þeim þótti það ganga næst skinnbókinni og töldu það jafnvel beina afskrift hennar, þá er hún var heillegri. Fleiri handrit vóru og höfð til hliðsjónar. Handrit J. E. endar í miðju kafi í síðasta kap. á orðunum: „fara til Ölvis hins“, svo sem öll önnur handrit, er þeim vóru kunn; og er því eyða í útgáfunni frá þessum orðum til þess er skinnbókarbrotið tekr við með niðrlagi sögunnar: „(ga)nga þeir Illugi ok Björn“ o. s. frv. Hugðu útgefendr, að eyða*

*þessi mundi nema einni síðu í skinnbókinni (sem skafin er) eða sem svaraði hálfri annarri síðu prentaðri. — Sagan kom einnig sérprentuð sama ár ásamt Ljósvetningasögu, eftir sömu útgáfu með sérstökum formála og kallast þar „Vémundar saga ok Víga-Skútu“. Útgáfa þessi virðist allgóð, eftir þeirrar tíðar hætti.*

*Öðru sinni kom sagan út í útgáfu Hins íslenzka Bókmentafélags í Khöfn 1881. Dr. Finnr Jónsson bjó til prentunar. Hér er einnig farið eftir skinnbókarbrotunum það sem þau ná, en jafnframt höfð til samanburðar öll pappírshandrit, sem kunn vóru, og orðamunr greindr neðanmáls. — Þriðja sinni er sagan prentuð í Reykjavík 1896, í safni Sigurðar bóksala Kristjánssonar af Íslendingasögum. Valdemar Ásmundarson bjó undir prentun. Er þar farið eftir meginmáli sögunnar í útgáfu Bókmentafélagsins.*

*Fyrrnefnd brot sögunnar eru úr skinnbók, ritaðri um 1400 og nú geymd í safni A. M. 561, í fjögurra blaða broti. Bókin hafði verið eign Þorláks biskups Skúlasonar á Hólum, að því er Elín dóttir hans sagði Árna. Af bókinni er nú til 41 blað. Fyrirsagnir og upphafsstafir eru með rauðu letri. Auk þessarar sögu eru þar brot af Gull-Þóris sögu og Ljósvetninga sögu. — Af Vémundar sögu ok Víga-Skútu eru 16 fyrstu blöðin og hefst með orðunum: „(bæ)num. Sveinninn skal gneggja þar“ (sjá bls. 43 í þessari útgáfu). Nær brot þetta óslitið aftr í 20. kap. og endar á orðunum: „ok lúka þegar fyrir sakar fjölskyldu þeirar, er hann átti at (annask;“ sjá bls. 73). Verðr þá eyða, en sagan hefst aftr í næsta kap. á orðunum: „(ok segja sér) alla af hendi vera“ (sjá bls. 75); og helzt óslitið aftr*

*í 28. kap., en endar þar á orðunum: „váru þar á festir hringar til þess at eigi mætti svá at“ — (sjá bls. 99). Loks hefst endi sögunnar í 30. kap. á orðunum: „(Þeir gan)ga nú eftir jarðhúsinu“ og er heill til söguloka.*

*Eyðurnar inn í milli stafa af því, að skafnar hafa verið heilar og hálfar síður í skinnbókinni og líklega vantar auk þess alveg eitt blað á milli hefta. —*

*Til er fjöldi pappírshandrita af sögunni í söfnum erlendis og hér á landi og jafnvel í eigu einstakra manna. Eru in elztu rituð um miðbik 17. aldar. Dr. Guðbrandr Vigfússon, og dr. F. J. (í formála fyrir Bókm.fél. útgáfunni) telja öll þessi handrit stafa frá týndri skinnbók og mun sú skoðun bygð á því, að þau eru auðsjáanlega skrifuð eftir heilli bók, að öðru en því, að á þau vantar niðrlag sögunnar. Endar handritaflokkr þessi á orðunum í síðasta kap.: „Þóroddr réð þeim Illuga ok Birni at fara til Ölvis hins“ — en við sum handritanna hefir löngu síðar verið aukið niðrlagi skinnbókarbrotsins, en að vísu ófimlega („.... fara til Ölvis hins spaka. Ganga nú eftir jarðhúsinu“ osfrv.). Vantar þá á milli enda pappírshandritanna og síðasta skinnbókarbrotsins sem svarar sex línum í þessari útgáfu (sjá bls. 103).*

*Dr. F. J. hefir síðar komizt að annarri niðrstöðu um uppruna pappírshandritanna og staðhæfir í bókmentasögu sinni inni miklu (1. útg.), að þau stafi einmitt öll frá skinnbókinni í A. M. 561 4to. Mun þetta rétt, þótt hann rökstyðji það eigi og kemr heim við skoðanir þeirra manna, er fyrst gáfu út söguna. En það, að allan*

*endi sögunnar hefir vantað í pappírshandritin (og þar með það, sem enn er til á skinnbókarbrotinu), hlýtr að stafa af því, að einungis eitt pappírshandrit hafi verið tekið í öndverðu eftir skinnbókinni, því næst hafi týnzt endinn af þessu handriti (eftir orðin: „fara til Ölvis hins“) og síðan stafi frá því handriti allar aðrar afskriftir, sem enda þarna í miðju kafi.*

*Mönnum var lengi ókunnugt um, að til væri handrit, er hefði söguna heila, og því var það, að dr. Hallgrímr Scheving reit á miða uppfylling í eyðuna, sér til gamans, og er miðinn í safni Jóns Sigurðssonar. Svarar hann að lengd einni blaðsíðu og er því mun lengri en vera ætti.*

*En þá kemr betri hjálp úr annarri átt. Í safni Bókmentafélagsins er bók, 384 í fjögurra blaðabroti með ýmissum sögum og þáttum, rituð á síðustu áratugum 18. aldar. Á bók þessari er Vémundar saga og Víga-Skútu með hendi Páls smiðs Sveinssonar á Steinsstöðum. Söguna hefir átt Halldór Hjálmarsson konrektor á Hólum, mentamaðr, sem lagði mikla stund á að bjarga frá glötun fornum skjölum og ritum. — Handrit Páls endar á orðunum: „til Ölvis hins“ — svo sem önnur handrit, en síðar hefir Halldór konrektor aukið endinum við eyðulausum, og skrifað þar út á röndina: „Eptir Luxdorphs Exemplari Kh. er skrifad þad eptir er.“ Og á viðfestum miða gerir hann þessa frekari grein fyrir handriti sínu:*

*„Þessi saga af Vemundi Kogur og Vígascutu er skrifud af Pale saluga, sem var á Steinstodum og dó þar [1804] epter eiginhandarriti prestsins sál Sr Magnusar á Hosculdsst. á Skagaströnd [þar var*

*hann prestr 1748—84] og borin sidan saman vid 3 Exemplaria. af hvorium eitt sem Gottschalch á Vollum átti var oldungis samhlioda, en tvö önnur voru ad mestu leyti samhlioda sin á milli, annad frá Mr. Þorsteini Gíslasyni á Kristsnesi í Eyafirde, annad frá Sr Jóni Jónssyni á Bardi í fliotum med hond Prent. Sal Petrs Jonssonar, sem dó í Asgeirsbrecku .... Endirinn sem oll Exemplaria vantade feck eg nockrum arum sidar skrifadann epter Luxdorphs Exempl. í Kaupmannahofn af Sr Sveini Palss. kirurgo."*

*Eigandi handrits þess, sem hér er vísað til, er B. W. Luxdorph leyndarráð, er uppi var í Danmörku síðara hluta 18. aldar. Átti hann ekki allfátt íslenzkra handrita og eru sum þeirra geymd í söfnum, er fylgja konunglega bókasafninu í K-höfn. Ekki finst þó handrit hans af Vémundar sögu og Víga-Skútu og mun það týnt. — Sveinn Pálsson hefir ritað eftir því endi sögunnar, þá er hann var við nám í Khöfn á árunum1787—91. Er því handrit Halldórs konrektors nú elzta handrit, sem hefir söguna heila. Er það hvorttveggja, að afskriftin hefir farið góðra á milli frá handriti Luxdorphs, enda virðist uppfylling þessi fullkomlega áreiðanleg og ósvikin, bæði að efni og orðbragði, og fellr sem bezt má vera við söguna á undan og eftir. Hlýtr því handrit Luxdorphs að hafa stafað frá skinnbókinni eða afskrift hennar meðan þessi hluti hennar var heill og óskafinn.*

*Eftir þessu handriti Halldórs Hjálmarssonar er eyðan fylt í útgáfu Bókmentafélagsins, sem farið hefir verið eftir við þessa prentun sögunnar. En af því, að prentunin er ekki alveg samkvæm hand-*

*ritinu, þá prenta eg eyðufyllinguna hér óbreytta eftir því (að öðru en stafsetning):*

*[Þoroddr réð þeim Þórði Illuga ok Birni at fara til Ölvis hins] spaka, ok biðja hann ráða at vinna Skútu. Síðan fara þeir ok finna Ölvi. Réðsk hann þegar til ferðar með þeim ok hagar svá til, at þeir koma til hýbýla Skútu um nótt, ganga þeir Illugi ok Björn í jarðhúsit eftir tilvísan Þorgríms með ljós, en Ölvir var hjá jarðhúsmunnanum. Þeir gan[ga nú eftir jarðhúsinu, osfrv].*

*Til er annað handrit í safni Bókmentafélagsins, Nr. 206 í fjögurra blaða broti, sem einnig hefir söguna heila. Á bók þeirri er ýmiskonar samtíningr í bundnu máli og óbundnu. Er hún rituð um 1827 af Halldóri Árnasyni, er lengi var lyfjasveinn í Nesi á Seltjarnarnesi. Hann var fæddr um 1772, sonr Árna á Selalæk, Ormssonar prests Snorrasonar að Reyðarvatni. Var hann hneigðr fyrir grúsk og fróðleik. — Handrit þetta kallar dr. Finnr Jónsson: J. í formála Bókm.fél. útgáfunnar, og segir það vera „það eina handrit, sem skrifað er beinlínis eftir skinnbókarbrotinu, það sem það nær“. — Þetta mun þó ekki rétt athugað, því að hvorttveggja er, að ritarinn. Halldór Árnason, mun aldrei hafa farið utan og því ekki haft færi á að sjá skinnbókarbrotin, enda er dálítill orðamunr milli handrits hans og skinnbókarinnar. Virðist J. sums staðar réttara og eru stöku leiðréttingar teknar upp í þessa útgáfu eftir handritinu sjálfu, þótt þess orðamunar sé ekki getið í útgáfu Bókmentafélagsins. — Eyðufyllingin á að líkindum rót sína að rekja til handrits Halldórs konrektors.*

*Meðal elztu pappírshandrita sögunnar er Nr. 158 fol. í safni A. M. Er það bók með mörgum*

*sögum, er átt hefir Þorsteinn Bjarnarson prestr á Útskálum (f. c. 1612, d. 1675). Þessi bók hefir verið lögð til grundvallar við útgáfu Bókmentafélagsins, þar sem vantaði í skinnbókina. — Þá er og önnur sögubók: A. M. 496 í fjögurra blaða broti, er átt hefir Þorlákr biskup Skúlason „en enginn annar 1652“, og er hún notuð við útgáfuna 1881. — Enn eru þar talin mörg handrit, sem oflangt yrði hér að greina og vísast um það efni til formála margnefndrar útgáfu Bókmentafélagsins.*

*Sagan er nefnd á ýmsa vegu í handritunum. Í flestöllum þeirra er hún kölluð: S a g a V é m u n d a r k ö g u r s o k V í g a - S k ú t u. Ein tvö þeirra kenna hana alla við Skútu. Annað þeirra (handrit Þorláks biskups, sem áðr var getið) bætir þó við: „þessi saga kallast öðru nafni Reykdœlinga-saga.“ — Skinnbókarbrotið hefir fyrirsögn fyrir 17. kap. (þar sem síðari hluti sögunnar hefst): „Saga Víga-Skútu sonar Áskels.“ — Í útgáfunum 1881 og 1896 er sagan öll nefnd einu nafni: Reykdœla saga og staðhæft í formálum fyrir útgáfunum, að svo sé „gert í sögunni sjálfri“. En þetta er misgáningr. Í 19. kap. (þ. e. í síðara hlutanum, sögu Víga-Skútu) er skírskotað til f y r r i s ö g u n n a r með þessum orðum: „. . Þá er þeir Áskell börðusk ok Steingrímr, sem sagt er fyrr í R e y k d œ l a s ö g u n n i frá viðskiftum þeira.“ Hér er vitnað til V é m u n d a r s ö g u, og er h ú n því öðru nafni kölluð „Reykdœla sagan“, einmitt t i l a ð g r e i n i n g a r frá „Sögu Víga-Skútu sonar Áskels.“ Er það og rétt, því að sá hluti sögunnar segir frá þeim Reykdœlum, en Víga-Skútu saga mest frá Mývetningum. Sagan virðist að vísu ein heild, eftir sama höfund,*

*og er saga Víga-Skútu beint framhald af Vémundarsögu eða „Reykdœla sögunni“. — Má því nefna báðar sögurnar einu nafni sameiginlegu, þótt svo virðist eigi hafa verið gert í öndverðu. Því er nafninu: „Reykdœla saga“ haldið á titilblaði og yfirskrift allrar sögunnar, þótt það sé eigi allskostar rétt, svo sem að framan var sagt.*

*Nokkur örnefni við Mývatn staðfesta atburði þá, er frá er sagt í sögunni. Lifa enn sagnir, er örnefnum þessum fylgja, þótt þau sé ekki nefnd á nafn í sögunni sjálfri. Er það allmerkilegt, að fjögur örnefni staðfesta frásögnina um bardagann á Geirastöðum og dráp Austmannanna: Vagns, Nafars og Skefils, því að við þá alla eru örnefnin kend: Vagnsbrekka (stundum nefnd: Vagnabrekka), Skefilshólar og Nafarssker (í Laxá), en Kumblabrekkur heita og þar skamt frá, þar sem dysjar hafa fundizt og sagt er, að þeir hafi dysjaðir verið, er í bardaganum féllu.* — Dritsker heitir hólmi í Mývatni, þar sem sagt er, að Skúta hafi bundið flugumanninn. Sagan getr um tvo flugumenn, er Skúta byndi, og nefnir Hrafnasker, þar sem annar væri bundinn, en lætr hinn staðinn ónefndan. Liggr beint við, að Dritsker sé staðr sá, er Skúta batt mennina, eða manninn, hvort þeir vóru tveir eða einn.*

*Sum þeirra bœjanafna og staða, sem sagan getr um, eru nú glötuð eða breytt. Er stuttlega*

* Aftr mun Skútaskriða austan í Vindbelgjarfjalli fremr vera kend við skúta þann, sem þar er fyrir ofan og nú nefnist Skútahellir, heldr en þessi örnefni sé dregin af nafni Víga-Skútu, þótt það sé fœrt í munnmæli. Orðmyndirnar væri þá rangar, en vel skiljanlegt, að munnmælin gæti vilzt á líking nafnanna.

*vikið að þessu í nafnaskránni. — „Reykir“ hljóta að vera sama sem Laugar í Reykjadal. Svo hljóta „Laugar“ í Ljósavatnsskarði að vera Stóru-Tjarnir. Þar er laug við bœinn. Þar sem sagan segir, að Vémundr hefði boð „undir Felli“, þá hlýtr að vera átt við bœ þann, er Landnámabók nefnir „undir Skrattafelli“, en það er annarhvor bœrinn: Ytra-Fjall eða Syðra-Fjall. Annars er sagt bæði fyrr og síðar í sögunni, að Vémundr byggi á Öndóttsstöðum. Virðist hér því eitthvað aflaga eða málum blandað. — Arnarstaðir í Eyjafirði, sem tvö handrit hafa, er víst rangt, en réttara nafnið Granastaðir, sem í flestum handritum stendr. Um þetta segir Brynjólfr frá Minna-Núpi í Árbók Fornleifafélagsins 1906, bls. 20: „Handritum sögunnar ber eigi saman um bústað Grana, föður Helgu, er Háls átti. Segja sum, að hann byggi á Granastöðum, en önnur á Arnarstöðum. Og með því að kunnugt er, að bœr er í Eyjafirði, sem heitir Arnarstaðir, en enginn sem heitir Granastaðir, þá hefir Arnarstaðanafnið verið tekið upp í textann, sem hið rétta, í síðustu útgáfu(m) sögunnar. En þeir, sem því réðu, hafa ekki vitað, að eyðibœr er til í Eyjafirði, sem heitir Granastaðir. Hann er suðr í Eyjafjarðardal, svo langt fyrir sunnan Hóla, að annar bœr hefir verið þar á milli; sá hét Másstaðir. Sér til rústa þessara bœja beggja.“ — —*

*Frásagnir sögunnar sumar bera þess vitni, að höfundrinn hafi eigi verið nákunnugr í Þingeyjarþingi. Eru margar lýsingar um ferðir manna nokkuð ónákvæmar og miðlungi ljósar, þótt þær megi til sanns vegar fœra. Yrði hér oflangt mál að tína það og telja. Kunnugleiki höfundar virð-*

*ist miklu meiri í Eyjafirði. Má meðal annars marka það af frásögninni um för þeirra Áskels í Eyjafjörð, einkum lýsing vettvangs þeirra Steingríms; þar er nefndr „Kárapollr“ og er hann enn til; — eða þar sem sagt er, að þeir Vémundr hitta Gnúp „fyrir utan Laugaland á melunum“. Er líklegast, að höfundrinn hafi heima átt í Eyjafirði.*

*Sagan virðist lítt hafa færzt úr lagi í afskriftum. Hún er rituð lipru og alþýðlegu orðfæri og virðist fornleg og áreiðanleg. Er talið, að hún sé í letr færð fyrir eða um 1200, og er að ýmsu leyti merkileg saga. Einkennilegt er það um rithátt sögunnar, hversu margoft koma fyrir orðin: „Svá er sagt“; bendir þetta til þess, að sagan sé að öllu skráð eftir munnmælum, en eigi „soðin saman“ eftir rituðum heimildum. Nokkurum sinnum er þess getið, að sögnum beri eigi saman; er þá hvorrartveggju sagnarinnar getið, en ósagt látið, hvor sannari sé.*

*Þess er getið í 19. kap., að „spjótit Vagnsnaut átti síðan Þorvarðr Þorgeirsson. Saxit var ok upp tekit ór kumli Nafars ok þóttu öll vápnin vera forkunnar góð, sem jafnan bar raun á, ef þau váru til nökkurs höfð. Enn eru hér nökkur merki til sögð“.* — Af þessu er auðsætt, að höfundr sögunnar hefir þekt vel til frásagna um vopn þessi, þótt hann skrásetji eigi. Þorvarðr Þorgeirsson, sem hér er nefndr, mun víst vera enn nafnkunni höfðingi, er uppi var síðara helming*

---

* Þessi orð þurfa eigi að merkja það, að höfundrinn ætli að skrá þessi „merki“ í sögunni, enda er þeirra eigi frekara getið.

*12. aldar og margt er frá sagt í Sturlunga sögu og Biskupasögum. Hann var mágr Hvamm-Sturlu og föðurbróðir Guðmundar biskups Arasonar, ævintýramaðr og óeirinn, stóð í vígaferlum og þurfti oft vopna að neyta. Hann bjó um skeið á Ljósavatni og á Hálsi, en varð loks munkr (að Þverá sem Þorgeir Hallason faðir hans, að því er víst má telja) og lézt 1207. Hafa vafalaust verið stundaðar bókmentir og sagnaritun þar í klaustrinu í það mund. Kemr það vel heim við þann tíma, er sagan er rituð, að höfundrinn hafi gerla þekt Þorvarð og jafnvel eigi fjarri, að hann sjálfr hefði verið við samning hennar riðinn. — Ljósvetninga saga skírskotar á einum stað (kap. 23.) til Þorvarðs Þorgeirssonar og hermir orðtæki, er hann „var vanr at mæla“ og hafði dregið af atvikum fornum, sem frá er sagt í sögunni. Þessi athugasemd hefir auðsælega fyrst verið rituð utanmáls á blaðrönd af manni nákunnugum Þorvarði og er skotið inn í miðja viðræðu þeirra Eyjólfs halta og manna hans. Ber innskot þetta, þótt stutt sé, vitni þess, að Þorvarði hafi legið ljóst fyrir og verið hugleiknir fornir atburðir á frændslóðum sínum norðr þar. Hann var skáld og átti skamt til fróðra að telja, því að móðurbróðir hans var Ingimundr prestr Einarsson á Reykjahólum, „fræðimaðr mikill ok fór mjök með sögur ok skemti vel kvæðum ok orti;“ hann er og kallaðr „et mesta stórmenni í skapi,“ „at mörgu enn mesti mætismaðr,“ „et mesta göfugmenni, skáld gott, ofláti mikill bæði í skapferði ok annarri kurteisi, enn mesti gleðimaðr ok fekk margt til skemtanar.“ Hefir þeim frændum svipað saman um margt og vafalaust verið mikil vin-*

*átta með frændsemi. Áttu þeir góðan kost að kynnast, bæði á Alþingi og eins þá er Þorvarðr dvaldist þar vestra í Hvammi með Sturlu Þórðarsyni og Ingibjörgu systur sinni. Var Þorvarðr þá um þrítugt, er Ingimundr lézt (1169). — En því hefi eg látið alls þessa getið, að þar sem sögur þeirra Ljósvetninga og Reykdœla geta báðar Þorvarðs eins þeirra manna, er uppi vóru þá er þær vóru ritaðar, þá er það ekki alls ómerkilegt, þótt því hafi engi gaumr verið gefinn, — svo að nafns Þorvarðs er jafnvel hvorki getið í nafnaskrá útgáfunnar 1881 né 1896 af Reykdœla sögu. En vert að halda öllu því til haga, er bent getr til heimildarmanna fornsagna vorra.*

*Haukr Valdísarson, er orti Íslendingadrápu á 12. öld, telr Glúm Geirason, en eigi Þorkel bróður hans, hafa eignazt sverðið eftir Skefil dauðan. Hann kveðr svo:*

*Ár frák arfvörð Geira,*
*ylgr saddisk, vel fylgja*
*(menn vá Glúmr at gunni)*
*Gunnhildar bur kunnu.*
*Njörðr klauf Herjans hurðir*
*harða vitr á Fitjum*
*hinn es mál af manni,*
*metins auðar, fekk dauðum.*

*Sagan kom út í þýzkri þýðing í ritsafninu Thule, 11. bindi, Jena 1921. Útgefandi próf. Felix Niedner. Þýðandi er Walter H. Vogt. Í formála heldr hann því fram, að Vémundarsaga sé eftir annan höfund en Víga-Skútu saga og hafi þær verið skeyttar saman síðar. En eigi virðast nœgilega öflug rök fyrir þeirri ætlan hans.*

*Að lokum vil eg þakka þeim Hannesi Þorsteinssyni þjóðskjalaverði og dr. Páli Eggert Ólasyni háskólakennara fræðslu um menn þá, er að þeim handritum sögunnar standa, sem hér eru geymd og að framan getr.*

12. nóv. 1923.

*Benedikt Sveinsson.*

---

# TÍMATAL.

---

Víg Áskels goða .............. um 970.
Deilur Víga-Glúms ok Víga-Skútu um 980.
Víga-Skúta ráðinn af dögum ... um 990.

---



# Vémundar saga kögurs.

Hér hefr sögu Vémundar kögurs.

1. Þorsteinn höfði hét maðr. Hann bjó á Hörðalandi. Hann var faðir Eyvindar ok Ketils ens hörzka. Þat var eitt sinn í tali þeira brœðra, at Eyvindr kvaðsk heyra gott af Íslandi sagt, ok fýsti bróður sinn Ketil til Íslandsferðar með sér eftir andlát föður síns. Ketill vildi eigi fara, en bað Eyvind svá vítt nema land, at þeim ynnisk báðum vel, ef honum líkaði þar landskostir. Eyvindr fór til Íslands, ok kom skipi sínu í Húsavík á Tjörnesi, ok nam Reykjadal upp frá Vestmannsvatni, ok bjó at Helgastöðum, ok þar var hann heygðr. Náttfari sá, er Garðari hafði út fylgt, hafði eignat sér áðr Reykjadal, ok markat til á viði, hversu vítt hann skyldi eiga; en er Eyvindr fann hann, gerði hann honum tvá kosti, at hann skyldi eiga Náttfaravík, eða alls ekki. Þangat fór Náttfari.

Ketill fór til Íslands at orðsending Eyvindar bróður síns, ok seldi áðr jarðir sínar austr. Hann bjó fyrst at Einarsstöðum í Reykjadal. Hann var faðir Konáls, föður Einars, er þar bjó lengi. Eyvindr átti mörg börn; synir hans váru þeir Helgi á Helgastöðum, er þeir eru við kendir — hann druknaði á Grímseyjarsundi, — ok Áskell goði, er bjó í Hvammi, faðir Víga-Skútu ok Þorsteins. Dœtr Eyvindar váru þær Þorbjörg, er átti Þormóðr ór Laxárdal, ok Fjörleif, er átti Þórir leðrháls sonr Þorsteins Gnúpa-Bárðar sonar. Þeira synir váru þeir Vémundr kögurr, Herjólfr, Háls, Ketill í Húsavík, Áskell ok Hávarðr, er bjó í Fellsmúla.

Eysteinn hét maðr. Hann var Mánason, ok háleygskr at kyni. Hann bjó ı Rauðaskriðu við Fljótsheiði. Hann var ójafnaðarmaðr mikill. Mýlaugr hét nábúi hans. Hann bjó á Mýlaugsstöðum. Hann var barnfóstri Hávarðs Fjörleifarsonar. Mýlaugr var auðigr maðr ok síngjarn. Eysteinn fór til við sétta mann ok tók fyrir Mýlaugi fjögur mæli-hlöss skíðaviðar, ok hafði með sér heim, því at hann vildi eigi selja honum. Oft hafði hann fengit honum áðr við, ok hafði hann ekki fyrir goldit. Mýlaugr sagði til Hávarði, en Hávarðr Áskatli góða, móðurbróð-

ur sínum. Áskell kvað Eystein eigi vera jafnaðar-mann Mýlaugs við at eiga, ok vildi hann sjálfr til vekja um málit við Eystein, sem hann gerði um várit. Eysteinn lagði málit undir Áskel, því at hann var réttlátastr manna í sættargerðum, hverir sem í hlut áttu. Áskell gerði Mýlaugi jafnmikinn við, ok tólf aura silfrs fyrir sakastaði. Þá var goldit silfrit þegar, en viðrinn litlu síðar. Kvaðsk Eysteinn eigi oftar skyldu undir Áskel leggja mál sín. Ekki taldi Áskell at því. Þat haust kom Þorsteinn bolstöng út í Húsavík, systursonr þeira Áskels, ok átti í skipi. Hann fór til Hávarðs, ok lét bera varnað sinn til Eyjafjarðar, ok þótti ekki á verða nema starf eitt, ok seldi því Eysteini ór Rauðaskriðu þrjú hundruð lérefta ok klæða fyrir tíu hundruð, ok bauð Eysteini at flytja til skips í Húsavík verðit, áðr fjórar vikur eru af sumri. Hávarði þótti þat í illa skuldastaði selt, þá er hann vissi, en hélzk kaup sem áðr. En er vára tók, þá heimti Þorsteinn at Eysteini. Hann kvað Þorstein eigi þurfa at annask um; ok annat sinn, er Þorsteinn kom at heimta at Eysteini, svaraði Eysteinn: „Ek hefi", segir hann, „selt öðrum mönnum léreftin. Nú gelzk mér seint af þeim, sem ek á at heimta at; en verr hefir mér greiðsk, en ek hugða til, at kaupa við þik, því at léreftin

váru verri, en ek ætlaða.“ Þorsteinn kvað Eystein óspiltan varning tekit hafa, ok nú þykkir sinn veg hvárum þeira. Ok þar kom nú mál þeira, at Eysteinn kvað þat mundu bezt at heimta ekki fyrir varninginn, ok láta þar niðr falla þat mál, sem nú var komit. Þorsteinn fór nú ok sagði Hávarði til svá búins. Hávarðr segir, at nú fór sem hann grunaði, ok hann gat til, þá þegar, er Þorsteinn sagði honum kaup þeira, — „ok þat sýnisk mér fyrir liggja, at leita til Áskels um þetta mál, sem öll önnur, þau er hans sómi við liggr ok frænda hans, ok er sá líkastr at rétta þetta mál við Eystein.“ Þorsteinn kvaðsk eigi vilja kæra fyrir frændum sínum þetta mál, ok bauð nú Eysteini hólmgöngu, þá er hann varnaði honum gjaldsins. Tóksk hólmgangan með þeim, ok varð hon með því móti, at Þorsteinn hjó skjöldinn af Eysteini, ok nær undan honum fótinn. Tók hann þar þrjár merkr silfrs ok varning sinn allan. Fór hann nú utan. Þótti mönnum hann mikit vaxit hafa af máli þessu. En frá Eysteini er þat at segja, at fótr hans var grœddr, ok gekk hann jafnan haltr, síðan er hann hafði barizk við Þorstein.

2. Svá er sagt, at Háls Fjörleifarson gerði bú at Tjörnum í Ljósavatnsskarði, ok þar

gerðisk vinátta mikil í millum ok Eysteins í Rauðaskriðu. — Björn hét maðr. Hann var frændi þeira Fjörleifarsona. Hann kom einhverju sinni at hitta Háls Fjörleifarson, ok beiddi hann nökkurs tilbeina um ómegð sína, ok svá at gefa nökkut til utanferðar sér. Háls sagði, at hann myndi annask ómegð hans, ef frændr hans vildi beina til utanferðar honum. Björn réð þat nú af, at hann fór til Reykjadals, at finna föðurfrændr sína; ok hann kemr at kveldi til Eysteins, ok varð þeim margt talat, ok rœddu um, hverjar tiltekjur Björn ætlaði at hafa, ok þá spurði hann Eystein, hverju hann ætlaði at beina til utanferðar honum. „Viltu til vinna nökkut, þat er hœfilegt er, eða nenna?“ Eigi kvaðsk hann flugumaðr vilja vera, þó at Eysteinn vildi þat. Eysteinn svarar: „Ek skal gera þér kost einn fullgóðan. Þú skalt reka fimtán geldinga til Háls frænda þíns, þá sem ek á, ok þó með leynd, á þessarri nóttu, ok setja þar inn ok byrgja, en kasta vöttum þínum ok staf hjá vökinni þar á tjörninni.“ Björn fór með eftir ráðum Eysteins, ok rak fimtán geldinga til Háls frænda síns um nóttina á laun; en Eysteinn fekk honum fararbeina, ok fór hann utan austr í Fjörðum með ráði Eysteins. En frá því er nú at segja, hvat Eysteini gekk til þess, er hann bauð honum

at kasta niðr stafnum ok vöttunum hjá vökinni, at hann ætlaði, at menn skyldi hyggja, at hann væri druknaðr, ok ætla, at hvarf hans myndi af því vera. Um morguninn eftir fór Eysteinn í rannsókn, ok með honum Þorgeirr frá Ljósavatni, ok þeir kómu til Háls ok beiddu þar rannsóknar; var þeim þat uppi látit. Ok er Eysteinn rannsakaði, fann hann geldinga sína fimtán í húsi Háls, ok beiddisk sjálfdœmis af honum. En Háls brásk ókunnigr við þetta, ok vildi í engan mun festa grið fyrir þetta, er hann hafði engan grun um sauði Eysteins, þessa er þar váru komnir, eða hverju faraldi þeir hefði þar komit. Ok var þat nú hans órræði at leita frænda sinna, Áskels goða ok Hávarðs, ok segir þeim til þessa, þat sem hann mátti af vita. Þeir svöruðu, at nú hefði svá farit, sem ván var at, at hann mundi eigi betr gefask honum en öðrum. Þeir kváðu mjök í bœtr bera, at hann hefði engu mátt á leið koma um þenna atburð, ok var nú sú ráðagerð Áskels, at þeir myndi utan fara báðir brœðr, Háls ok Vémundr. — Þess var eigi langt at bíða, áðr en fréttisk hvarf Bjarnar, ok þótti mönnum þat með undarlegu móti vera. Ætluðu margir, at þat myndi hafa saman borit: hvarfit Bjarnar ok sauðanna Eysteins, ok kom þat mjök í huga mönnum

einart, at eigi væri örvænt við féþurft Bjarnar ok grunnsæi, en við illgirni ok slœgð Eysteins, at þeir myndi með nökkuru móti hafa verit báðir at einu ráði; töldu eigi ólíklegt, at þann veg myndi Eysteinn þykkjask helzt mega reka svívirðingar sinnar, sem hann fekk af Þorsteini bolstöng, at láta frænda hans verða fyrir þvílíku ámæli, sem mörgum myndi þykkja líklegt vera, at Háls fengi af þeim hlut. Þótti þat ok undarlegt, at hann fœri svá djarflega með, ok gengi svá gegnt at í rannsókninni, nema hann vissi nökkut til áðr. Nú ferr málit til þings, ok lauk svá, at Háls varð sekr um sauðatökuna, fyrir því, at Áskell vildi eigi svara fyrir hann.

3. Nú er at segja frá ferð þeira Háls ok Vémundar, at þeir fóru utan, ok fundu Björn frænda sinn, ok spurðu, hverju gegndi um ferð hans; en hann varð fár við komu þeira, ok fann þat til utanferðar sinnar, at hann kvaðsk svá helzt mega forðask ómegð sína, at hann fœri utan. Háls kvað þat mundu engu gegna. Björn sagði, hvernig farit hafði með þeim Eysteini, er hann hafði heitit honum at annask ómegð hans, ef frændr hans vildi nökkuru til beina til utanferðar honum, — ok nú segir Vémundr, at hann hafi ekki komit at finna þá, ok þykkjask þeir brœðr

nú skilja, at hann myni eigi et sanna uppi láta, ok leita nú eftir við Björn, þar til er hann segir et sanna, hversu farit hafði með þeim Eysteini; ok nú tóku þeir Vémundr ok Háls Björn, ok fóru með hann á sínu valdi aftr til Íslands þegar et næsta sumar, ok koma skipi sínu í Húsavík ok hafa þar Björn með sér. Þat var ráðagerð þeira Vémundar at leyna Birni, þar til er þeir fyndi Áskel goða. Háls sagði þá þegar Katli bróður sínum, er hann kom til skips. Nú láta þeir skamt at bíða, áðr en þeir fara á fund Áskels, ok segja honum, hvar nú var komit málinu, ok þykkir honum nú vel hafa vegnat, ef Háls mætti nú fá rétting síns máls, ok safnar nú at sér mönnum, þar til er þeir verða saman sex tigir, ok fara þegar til Eysteins, ok hugðusk at koma þar á óvart. En þat bar svá til, at Eysteinn hafði þar eigi færa lið fyrir. Þeir Áskell ok frændr hans bera upp sitt mál, ok duldi Eysteinn alls um þat, at svá væri, sem þeir sögðu. Þá var Björn til leiddr, ok sannar hann sögu þeira Áskels, ok eigi dylr Eysteinn at síðr, ok nú biðr hann liðs Þorgeir Þorkelsson ljósvetning. En hann sagði, at hann myndi eigi gott mál til bera, ok kvaðsk þat vita, at Áskell myndi honum aldri lið veita um þetta mál. Áskell lét nú stefna Eysteini um illmæli þat, sem hann

hafði við Háls um sauðatökuna, til alþingis. Engir menn urðu til at svara fyrir Eystein, ok nú verða þær málalyktir, at Eysteinn varð sekr, ok þá er þeir koma heim af þingi, þá reið Áskell þangat með flokk manna, ok ætlaði at taka hann af lífi. En í öðru lagi er þat at segja frá Eysteini, at honum hafði í hug komit, at eigi væri örvænt, at þvílíkar málalyktir yrði á þinginu, sem nú váru, ok honum þótti þurfa nökkurra órræða í at leita, ef duga skyldi, ok kom þat í hug, at eigi myndi þeir gefa honum langa tómstund til ráðagerðar, þegar þeir kœmi heim af þinginu, ef hann sæisk eigi áðr fyrir; ok nú var þat hans órræði, at hann samnaði saman öllu ganganda fé, því er hann átti, ok rak inn í húsin, ok brendi upp allt saman, bœinn ok fénaðinn, ok svá hjónin öll, þau sem verit höfðu hjá honum. En frá því segja menn ýmist, hvat honum sjálfum varð fyrir. Er þat sumra manna sögn, at hann hafi farit utan suðr á Eyrum, ok hafi sézk í Vík austr, ok þaðan farit suðr til Danmerkr. En sumir segja, at hann myni hafa brunnit inni með hjónum sínum; ok vitum vér eigi, hvárt honum hefir nú heldr at bana orðit, en jarðir þær, sem þar váru eftir, urðu nú sektarfé.

4. Hánefr hét maðr. Hann bjó í Óþveg-

instungu. Fátt verðr frá honum vel sagt í þessarri sögu, ok var hann óorðsæll maðr. Hann grœddi mikit fé, en þó héldusk lítt hjónin hjá honum. Svá er sagt, at Hánefr fór til fundar við Vémund kögur, ok bauð honum at fóstra Þórkötlu dóttur hans, ok ætlaði hann sér þat mjök til trausts við aðra menn. Vémundr var engi jafnaðarmaðr kallaðr, ok vænti Hánefr af slíku, at hans hlutr myndi síðr fyrir borð borinn verða, þó at hann bæri eigi ávalt gott mál fyrir hendi. Þat er nú at segja, at Vémundr þá barnfóstrit, ok ferr Hánefr nú heim, ok þykkir allgóð ferðin. Nú verðr Áskell varr við þetta, ok þótti kynlegt, hví hann vildi þiggja slíkt at jafnskitlegum manni, sem hann kvaðsk hyggja, at Hánefr væri; lét ok þat líklegt þykkja, at hann myndi af honum nökkut illt hljóta. Vémundr kvað eigi vera, sem hann segði; lét Hánef vera vingóðan mann, ok kvað hann hafa sér marga góða gripi gefna, ok kallaði sér líka vel við hann, ok kvað hann vera góðan dreng. Áskell kvað hann mundu eigi langt líða láta, áðr en hann sýndi honum drengskap sinn; — „en hann þykkisk nú hafa fengit sér örugt traust,“ — ok nú hætta þeir umrœðunni.

Þorleifr hét maðr; hann var kallaðr melrakki. Hann kemr til Hánefs ok skorar á

hann til vistar. Þá hafði húskarl Hánefs í brott hlaupit skömmu áðr, ok tekr Hánefr við Þorleifi. Þat var siðvani Hánefs, at hann lét hvern dag ganga í haga til sauða sinna, ok lét telja þá.

Maðr hét Hrafn. Hann bjó at Lundarbrekku í Bárðardal. Hann var góðr bóndi. Svá er sagt, at Hrafni hurfu geldingar sextán, ok spurði ekki til, ok þóttusk menn eigi vita, hvat af væri orðit. Þat er at segja, at Þorleifr melrakki varð varr við, at Hánefr hvarf mjök oft ór hvílu sinni um nætr ok þar kom, at hann forvitnaðisk um, hverju gegna myndi. Ferr hann nú út ok leitar Hánefs, ok í einni brekku fellr hann. Ok er hann stóð upp, er blóð á hendi honum, ok nú hyggr hann at, hvar hann væri skeindr, er hann sá sik blóðgan; ok nú verðr hann eigi þess varr. En nú grunar hann, hverju gegna myndi. Þar váru hrísrunnar nökkurir, sem hann var, ok þar hittir hann jarðhúss munna. Þar var þann veg um búit, at þar var borinn fyrir hrísflekkr, ok stungit í gegnum hríslum, ok var svá á at sjá, sem heilir runnar stœði, ef eigi var allt at gengit. Nú fór hann í jarðhúsit ok þreifask þar fyrir. Hann hittir þar gærur, ok sauðarhöfuð grábíldótt fann hann þar eitt, ok var þat mjök auðkent. Þat tók hann á brott, ok þekr aftr

sem áðr var eftir sér. Síðan kendi hann reykjarþef, ok því næst sá hann eld ok ketil yfir eldinum, ok var þar maðr hjá, ok kennir hann hér Hánef, húsbónda sinn, ok gengr nú at fram at eldinum, ok lætr illa at Hánef, er hann er at slíku um nætr. Hánefr kvað húsfreyju rekkjuilla, en sagði sér ant um daga, svá at hann mætti þá eigi at vera, ok nú býðr hann Þorleifi eldsverk, en hann kvaðsk þat ekki vilja, ok segir, at hann myni eigi lengr með Hánef vera, ok kvað sér vera illan grun á hans máli, — ok þar skilja þeir. Ferr hann nú þar til er hann kemr til Hrafns, ok varðveitti höfuðit, þat sem hann fór með. Vel fagnar Hrafn honum, ok frétti, hví hann fœri frá Hánef. Þorleifr talði hvárntveggja þeira geðlausan, ok því hefði hann í brott farit. Nú varð Hrafni rœtt um sauðahvarfit, ok varð þann veg í orðum Þorleifs, at honum þótti menn engan gaum at gefa slíkum hlutum, — „er ekki skal eftir leita þvílíkum hvörfum, er svá eru stödd.“ Hrafn spurði, hvárt hann vissi nökkut til, hvert eftir myndi vera at leita. Ekki vildi hann þó segja Hrafni greinilega til, áðr en Hrafn gaf honum hundrað silfrs, ok nú sýnir Þorleifr honum bæði höfuðit ok markit, ok kendisk Hrafn þat. Nú fara þeir til jarðhússins, ok fundu

þar ekki. Þeir þóttusk vita, at Hánef myndi hafa grunat, at Þorleifr hafði snefil af haft, ok hafi því á brott borit. Þeir Hrafn hitta nú Hánef, ok báru þetta á brýn honum, at hann mun vera nökkurs af valdr um sauðatökuna, en hann dulði alls um þat. Þorleifr segir Hánef grun þann, er hann hafði af, ok eigi dylr Hánefr at síðr. Hrafn bauð honum at hafa jafnmarga sauði aftr, sem hann hefði tekit frá honum. Eigi vildi Hánefr þat, ok nú skiljask þeir. Fara þeir Hrafn heim, ok sannlega þykkisk Hrafn nú vita, at Hánefr hefir stolit frá honum geldingunum. Þat er nú at segja, at Hánefr ferr til fundar við Vémund vin sinn ok segir honum illmæli þat, sem haft var á honum. Vémundr spyrr, ef hann væri nökkurs af valdr um þetta mál, en Hánefr kvað þat fjarri fara, ok bað nú Vémund at styrkja sitt mál. Hann kvað svá vera skyldu.

5. Maðr hét Steingrímr Örnólfsson, Þórðar sonar slítanda. Hann var mikill maðr fyrir sér ok góðr bóndi. Hann var kvángaðr maðr ok hét Ástríðr kona hans.

Þorbjörn hét maðr, er bjó á þeim bœ, er í Árskógi heitir; þat er á Gálmaströnd. Þorbjörn átti tvá sonu, er við þessa sögu koma nökkut. Hét annarr Steinn, en annarr Helgi. Þeir váru efnilegir menn, ok enn mun

sagt verða frá þeim síðar meir í sögunni. Dóttir Þorbjarnar hét Ástríðr. Þá konu átti Steingrímr, er fyrr var nefndr. Steingrímr bjó at Kroppi í Eyjafirði. Var sagt, at hann væri frændi Hrafns, er bjó at Lundarbrekku í Bárðardal.

Nú er þat fyrst at segja, at Hrafn sendi Þorleif melrakka til Steingríms frænda síns í Eyjafjörð, ok vildi ekki hætta honum þar með sér, ok kvað hann vera góðs verðan af sér, svá sem honum hafði drengilega farit í málum þeira Hánefs. Kvaðsk hann eigi vilja, at hann hlyti þar illt af. Segir, at hann mun koma um vetrinn at finna hann. Þorleifr kemr nú til Steingríms ok tekr hann vel við honum at orðsendingu Hrafns. Er hann nú með honum. Um vetrinn finnask þeir frændr, ok er þat ráðagerð þeira, at Hrafn skyldi selja jarðir sínar þar norðr, ok fara síðan vestr í nánd Steingrími, ok stefna Hánef um sauðatökuna, en þá kveðsk Steingrímr vilja taka við málinu síðan. Nú fór Hrafn svá með, sem honum var ráð til gefit, at hann stefndi Hánef um várit, áðr en hann fór í brott þaðan ór sveit með allt sitt í Eyjafjörð. En frá því er nökkut at segja, hvern veg Hánef brá við stefnuna, at hann fekk sér sjálfr hest, ok reið þegar á fund Vémundar vinar síns ok segir honum, hvar nú var

komit málinu, ok nú lætr hann á sannask fyrir Vémundi, at hann er valdr at sauðatökunni, ok biðr hann nú ásjá nökkurrar. Vémundi þótti nú illa, at Hánefr dulði hann fyrr sauðatökunnar, ok sagði, at nú þœtti honum verra við at eiga, er hann hefði eigi áðr vitat. En þó er svá sagt, at Vémundr tekr handsölum á öllu fé hans, en hefði heim dóttur sína. Nú verðr Áskell skjótlega varr við þetta, ok býðr hann Hánef til sín, ok þótti hann vera þræls efni; segir nú, sem fyrr, at illt myni af honum hljótask; kvað eigi ólíkt því farit hafa, sem hann gat til fyrir öndverðu, þá er þeir Vémundr töluðusk við, þá er hann þá barnfóstrit at honum.

Steingrímr fór nú til alþingis með málit, ok endar svá, at hann Hánefr verðr sekr gerr um sauðatökuna.

Hrói hét maðr. Hann bjó norðr í Öxarfirði á þeim bœ, sem heitir í Klifshaga. Hann var mikill bóndi fyrir sér, ok sagt er, at Steingrímr gaf Hróa hundrað silfrs, til þess at drepa Hánef, ef Vémundr sendi hann í Raufarhöfn til skips, — „því at hann vill koma honum þar utan á Sléttunni.“ — En Steingrímr kvaðsk mundu varða at Gásum, at eigi kœmisk Hánefr þar utan. Ok þetta vill Hrói, ok fara menn nú heim af þinginu. Vémundr ferr Sandleið heim til bús síns á

Öndóttsstaði í Reykjadal, ok hann kom í Hraunsás hjá Mývatni. Þar bjó kona sú, er Þorgerðr hét. Hon átti son þann, er Þorkell hét. Hann var ungr maðr ok frœknlegr. Vémundr bað, at sonr hennar fœri norðr á Sléttu með honum til skips; kvað sér gott þykkja, at slíkir menn fœri með honum, sem Þorkell væri, — „er svá eru vænlegir.“ Hon leyfir, ok þykkir allmikit fyrir, en þó ferr hann með Vémundi. Nú ferr Vémundr at hitta Áskel frænda sinn, ok ræðsk um utanferðina Hánefs við hann. En Áskell latti utanferðina, ok bauð honum þar at taka við Hánef, ok sjá þat ráð fyrir honum, sem honum bezt líkaði; segir honum þann grun, sem hann þóttisk vita um ráðagerð þeira Steingríms ok Hróa í Klifshaga, en kvað enga ván, at hann myndi á brott komask í Eyjafirði, svá at Steingrimr yrði ekki varr við. Vémundr kveðsk þat eina vilja, at koma honum á brott. „Engan hlut vil ek í því eiga,“ segir Áskell, „ok far þú með sem þú vill, en mikit illt mun af Hánef hljótask.“ Vémundr sendi orð Háls bróður sínum, at hann komi á hans fund. Þá kom honum þat í hug, at eigi myni ráðit, hversu menn viksk við um orðsending hans. Ok því gerir hann þat ráð heldr, at sendimaðrinn beri orð Áskels þeim mönnum, sem hann vill til nefna.

Hann sendi mann til Þóris geitskeggs, er bjó í Laxárdal á þeim bœ, er hét í Holti. Þórir bjósk til sels, þá er sendimaðrinn kom. Þórir neitti ferðinni áðr en orð Áskels kómu til, en þá var hann þegar búinn. Ljót at Þverá í Laxárdal hitti hann ok; var hann sem óðast at skálasmíð; ok enn þriðja Þórodd harðjaxl á Mánahjalla. Hann var enn í selför. Þessir köstuðu þegar niðr verki sínu, er Áskels orð kómu til, en eigi fyrr. Þessir menn allir fara nú með Vémundi, ok er Hánefr í för með þeim. Þeir váru átján saman ok fara nú síðan þann veg, sem leiðir lágu; taka gistingarstað í Reykjahverfi með þeim manni, er Geirrekr hét, ok var vinr Vémundar. Hann bauð at hafa Hánef þar á laun, þar til er skip kœmi náðulega at, svá at honum mætti utan koma, ok kvaðsk þat þykkja ráðlegra, en sjá meðferð, er Vémundr ætlaði at hafa, ok sagði, at Hrói í Klifshaga hefði fé til tekit at drepa Hánef af Steingrími, ef honum gæfisk fœri á, — „ef þangat er fars leitat, sem þú ætlar nú til, ok því einu hefir hann þar um játat, at hann mun þat gjarna enda vilja, ef hann má því á koma.“ „Hitt er líkara,“ segir Vémundr, „at hann gefi at þessu engan gaum, ok munu vér fara þann veg, er vér höfum áðr ætlat.“ „Þú munt því ráða,“ segir Geirrekr, „ok annan veg mun reynask, en hann

Hrói myni láta hjá sér líða þat, sem hann er heitbundinn í við vini sína.“ — Þeir Vémundr kögurr fara nú í Öxarfjörð, ok yfir Jökulsá at ferju hjá Akrhöfða. Sá maðr hét Þórðr, er þar bjó. Þar hafa þeir dagverð at Þórðar. Svá er sagt, at Þórðr átti þræl, er .... var nefndr. Hann hafðisk þat at um daginn, er þeir Vémundr kómu, at hann ók heim viði. Ok þegar er þrællinn varð varr við, hverir komnir váru, þá veltir hann af hlassinu; síðan tekr hann á rás mikla, ok rennr þar til, er hann hitti Hróa í Klifshaga, meðan þeir Vémundr mötuðusk, ok nú segir hann Hróa, at Vémundr var kominn í Akrhöfða við átjánda mann, ok þat, at þar var Hánefr í för; ok kvaðsk þrællinn vilja nú launa brókavaðmálit, er hann hafði gefit honum. Hrói sendir þrælinn at vita, hvára leið þeir fœri, et fremra eða et efra um hálsa. Þórðr í Akrhöfða bauð Vémundi at sitja þar, ok sagði þat nú um þrælinn, at hann hefði í brott hlaupit, þá er þeir höfðu komit, ok kvaðsk ætla, at hann myndi hafa farit til Hróa ok gert hann varan við komu þeira. Vémundr vill fara, sem hann hefir ætlat, ok kvað Hróa ekki mundu þykkja undir um ferðir hans. — Þat er nú at segja, at Hrói safnar liði, ok hefir þrjá tigu manna. Áðr en hann fór heiman, vildi fóstra hans þreifa

um hann, ok þóttisk hon þá gerst vita, hvern veg honum mun farask. Hon finnr á fœti honum, en annars staðar þótti henni vel vera.

6. Nú fór Hrói með föruneyti sínu, þrem tigum manna, ok sátu fyrir þeim Vémundi í einstigi nökkuru. Höfðu þeir eigi lengi þar verit, áðr en Vémundr kemr með flokk sinn at einstiginu, ok nú hlaupa þeir Hrói upp fyrir þeim, ok biðr hann Vémund nú, at hann fái Hánef í hendr þeim, — „ok far aldregi með slíkt illmenni, heldr láttu mik sjá fyrir honum," segir hann, „þat er mér líkar." „Nei," segir Vémundr, „eigi mynda ek þat vilja, Hrói, at þú kœmisk svá auðvellega at hundraðinu því, sem þú tókt af Steingrími til höfuðs Hánef, at ek selja hann nú þegar fram þér í hendr. Verðið ér at sœkja eftir betr, ef ér vilið," segir hann. Nú slær þegar í bardaga með þeim, ok skýtr Vémundr þegar spjóti til Hróa ok í rist hans, en Hrói sendi þegar aftr spjótit til Þorkels ok í gegnum hann. En hann var sonr Þorgerðar í Hraunsási. Þóroddr harðjaxl vá Helga bróður Hróa. Þat er nú sagt, at þeir vildu aftr hverfa, Þóroddr ok Hánefr, en Vémundr vill þat eigi; ok nú kemr þar Áskell við þrjá tigu manna, ok vildi sætta þá. Er svá sagt, at hann fór þegar, er hann spurði atferðina Vémundar, ok þótti þess eins ván

vera, at eigi kœmi þeir fram skemdarlaust ferðinni fyrir Hróa, ok kallar nú mikit at orðit, ok kvað þó þá betra at sættask, en síðar. — Nú kemr þar ok til fundarins sá maðr, er Þórhallr hét. Hann bjó í Hafrafellstungu, góðr bóndi ok skilríkr. Hann var með þrjá tigu manna. Hann gerir nú tvá kosti. Bað þá at gera annathvárt, at kjósa hvárn þeir vildi, at þeir hætti at berjask eða hann mun ráðask til bardagans með þeim — „ferr þá sem auðit verðr.“ Ok nú láta þeir af at berjask. Svá er sagt, at fallnir váru af liði Hróa: Helgi bróðir hans ok þrællinn, en af Vémundi Þóroddr harðjaxl ok Þorkell, er fyrr var getit. Hánefr var ok fallinn, þótti þat fám mönnum skaði, þó at hann væri drepinn. Nú er þegar slegit í sætt málinu með því móti, at Áskell skal gera um þeira í millum. Sú var gerð Áskels, at vígin skulu á standask Þorkels ok Helga, bróður Hróa, Hánefs ok þrælsins, en Þórodd skal bœta hundraði silfrs. Land var goldit í Reykjahverfi, ok váru þat ráð Áskels. Eru þeir nú sáttir eftir þetta, ok fara nú hvárirtveggja til sinna heimkynna. — Nú segir Áskell, at nú hefir því nær farit, sem hann gat til, ok þótti þessi för betr ófarin. Vémundr kvað hvern sínum forlögum fylgja verða, sagði nú hváratveggja mega vel við

una sinn hlut, ok segir, at þá mun hverr deyja, er feigr er.

7. Þá gerði vetr mikinn þar eftir enn næsta, ok eigu þeir fund Reykdœlar at Þverá, at Ljóts hofgoða, ok þat sýndisk mönnum ráð á samkomunni, at heita til veðrabata. En um þat urðu menn varla á-sáttir, hverju heita skyldi. Vill Ljótr því láta heita, at gefa til hofs, en bera út börn ok drepa gamalmenni. En Áskatli þótti þat ómælilegt, ok kvað engan hlut batna mundu við þat heit. Sagðisk sjá þá hluti, at honum þótti líkara til at batna myndi við, ef heitit væri; ok nú spyrja menn hann, hvat þat væri; en hann sagði, at ráðlegra væri, at gera skaparanum tign í því, at duga gömlum mönnum, ok leggja þar fé til, ok fœða upp börnin. Ok svá lauk nú þessu máli, at Áskell réð, þó at margir menn mælti í móti í fyrstu; ok öllum þeim, er réttsýnir váru, þótti þetta vel mælt.

Einhverju sinni kom Vémundr at máli við Áskel, ok bað hann ljá sér ferju út til Flateyjar eftir veiðiskap. Kvaðsk hann bæði mundu flytja at Áskatli ok sér. Hann sagðisk ljá ferjuna þegar er hann vildi. — Áskell átti þar mikil föng í eynni, ok hafði þann mann settan til at geyma, er Kálfr hét. Ekki er hann sagðr mikilmenni. — Nú

ferr Vémundr, þar til er hann hittir Kálf, ok biðr hann at greiða sér föng þau, er Áskell átti í hans varðveizlu, ok kvaðsk vera eftir sendr. Kálfr svaraði, at hann kvaðsk selt hafa föngin þeim ór Árskógi, Þorbirni ok sonum hans, ok sagði nú Stein nýfarinn á brott, ok at hann hefði kú við tekit af þeim. Vémundr sagði: „Þá varð ek heldr til seinn; en þat væri maklegt, at ek dræpa þjóf þinn, ok mættir þú þann veg ekki svíkja fleiri góða menn sem Áskel, ok muntú vera enn versti maðr.“ Kálfr svarar, at hann ætti ekki refsing á þessu, — „lát mik fara á fund Áskels, ok vil ek gjarna, at hann geri minn hlut þann, sem hann vill.“ Nú fara þeir á fund Áskels ok segir Vémundr honum þat, sem um var. En Áskell sagði, at ekki skyli þeir um þetta deila þurfa, ef verðit gyldisk; — „vil ek nú,“ segir Áskell, „gefa þér, Kálfr, kúna,“ — ok biðr hann nú afla sér heyja um sumarit, ok sœkja sér aðra kú heim til sín, ok kveðsk þá vilja gefa honum, ok kendi sér völd um þat harðrétti, er hann hafði þolat af Vémundi, ok virði þat til várkunnar við Kálf. Ok jafnan sýndi Áskell þat, at hann var fám mönnum líkr sakar réttdœmis, er hann hafði manna í millum, ok drengskapar við hvern mann.

8. Annat vár bað Vémundr Áskel ferju

sinnar til Grímseyjar á reka þeira Áskels. Sá maðr er nefndr Máni, er geymdi rekann, þann er Áskell átti þar. Ok nú segir Áskell Vémundi, at hann hefði mælt við Mána á várþingi, at hann skyldi selja rekana, ef hann gæti, en ef nú væri eigi selt, þá skyldi Vémundr með fara. Vémundr kom nú til Grímseyjar, ok dró upp skip í varar Áskels; en þar lá skip fyrir, ok tekr Vémundr þat ráð, at hann hratt út skipinu, ok lét fljóta um íla. Gengr síðan til Mána ok spyrr eftir föngum, en Máni kvaðsk selt hafa, sem Áskell skipaði áðr. Vémundr segir, at hann var nú eftir sendr fanginu, ok kveðr Mána nú illa hafa með farit, ok vill hann þá enn eigi fara erendislaust; tekr síðan hval fram á ferjuna, er þeir áttu feðgarnir ór Árskógi, ok í því bili kom þar Steinn í eyna, ok mæltusk þeir við nökkur orð, ok vill Steinn eigi róa eftir honum, ok skiljask þeir nú at sinni. Nú kemr Vémundr kögurr á fund Áskels, ok segir honum, hversu farit hafði, ok bauð honum af fanginu slíkt, er hann vildi. Lét Áskell illa yfir ferðinni, ok kvaðsk engan hlut vilja hafa af því, er Vémundr stæli, en sagði Mána hafa svá með farit, sem hann hafði skipat honum, ok segir, at Vémundr vill þat oft ónýta, sem hann leggr til með honum, þótt honum gegndi hvergi verr þat

at hafa, ok nú segir Vémundr, at eigi skal hann utan hafa flutt farminn til þess at engi njóti; lætr flytja í bú sitt; segir, at nýta skal hann fangit, þó at Áskell vili eigi hafa. — Nú kemr Steinn at hitta Steingrím, mág sinn, ok segir honum þau óskil, er þeim feðgum váru ger af Vémundi um hvaltökuna. Steingrímr kveðr þá skulu gera eftir dœmum Áskels, ok segir, at þá skyldi ekki á skilja um hvalfjósir nökkurar, ok bað þá láta vera kyrt.

9. Þat er nú at segja, at skip kom í Eyjafjörð eitthvert sinn við Knarrarnes. Þat skip var viði hlaðit at miklum hluta; ok annat skip kemr at Gásum, mjök í þat mund, sem hitt fyrra. Herjólfr frá Mývatni ok Vémundr bróðir hans koma til kaupa. Herjólfr átti skála á velli, ok vildi kaupa til góðan við, ok bauð nú um Vémundi at vera fyrir sína hönd. Hann ferr nú ok falaði viðinn at austmanni fyrir Herjólf, ok þar var með kjörviðr, er hann vildi kaupa, ok var hvárrtveggja góðr viðrinn, ok nú segir austmaðrinn, at Steingrímr frá Kroppi hefir áðr varðað viðinn fyrir þrjú hundruð einlit, en hefði goldit áðr fyrir kjörviðinn í öðru lagi sex aura. Vémundr hélt enn fram málinu, ok bauð hann hálft verðit mórent fyrir viðinn, en allt mórent fyrir kjörviðinn. Sagði

honum eigi verra við sik at kaupa, en við Steingrím, — „en hefir þó verðit minna fyrir.“ Austmaðrinn kvaðsk mundu hafa selt honum, ef hann hefði fyrr komit, með þvílíku verði sem Steingrími, en segisk nú ekki taka litla mútu — „til at bregða þessu kaupi mínu, þar sem ek hefi orðið áðr ásáttr við annan mann.“ Nú sér Vémundr, at hann fær ekki at gert at svá búnu, en vildi þó fyrir hvern mun fá viðinn keyptan. Ok nú kaupir hann at einum þræl ok gefr honum til eyri silfrs, at hann segði í hávaða þar við skipit, at Steingrímr hefði keypt við at Gásum, ok hann myndi nú ekki þessa viðar þurfa, er hann hefði þar áðr varðat fyrir sína hönd, ok þegar er sjá saga kemsk við veðri þar at skipinu, þá keypti Vémundr þá þegar viðinn, þann er hann hafði áðr falat. Ok nú segir hann Herjólfi; en hann vill eigi hafa þenna við, er keyptr var í brigð við annan mann, ok kveðsk munu ná enn þeim viði, er menn hefði eigi áðr keyptan. Vémundr segir, at honum líkar þat vel, þótt hann vili eigi hafa viðinn; kvað ósýnt, at betra myndi hann við taka, eða betri kaup á fá, en sá var, e r keyptr v a r þvílíku verði. Herjólfr kvaðsk betra þykkja, þótt hann fengi harðan kost á um viðinn, ok væri ekki tvímæli á síðan, hvárt hann ætti eða aðrir menn.

